um

# Skýrnar-Sáttmálann

## og hans hald.

Skýrnin er Sáttmáli góðrar Samvitsku vid Gud, seigir Postulinn Pétur. Af þessum ordum sést, hvornig madur skal ad því fara, ad halda trúliga sinn Skýrnar sáttmála; hann skal, nefniliga, kappkosta ad varðveita góða Samvitsku, fyrir Gudi.

En, hvad er þá, góð Samvitska? Barnalærdómurinn kénnir, ad það sé góð Samvitska, nær vér finnum med sjálfum oss, ad eckert verdur med réttu fundid ad vorri breytni. Fyrir Gudi kann þess vegna einginn, eptir Logmálinu, góða Samvitsku ad hafa, því allir eru syndarar. En eptir Evangelío hafa þeir allir góða Samvitsku, sem — 1) hafa giordt alvarliga og sanna yðrun fyrir sínar syndir, og midt í þeirri

sömu umfadmad og ad sér tekid, med lifandi Trú, Jesú Christs réttlæti og fridþægíngu; því hans blód hreinsar oss af öllum vorum syndum; og sem hafa — 2) eptir þá fyrstu sönnu ydrun gjörda, aldrei neina synd af ásetu rádi, móti Gudi framid, heldur framgeingid í grandvarleika og gudhrædslu; en fyrir sínar dagligu óviljandi breiskleika syndir, hafa dagliga ydrun gjördt. Allir þessir hafa góda Samvitsku eptir Evangelio, og undir eins vardveita þeir hinir sömu sinn Skýrnar sáttmála vid Gud. Því meining þessa sáttmála er, yfir höfud þessi: ad vér skuldbindum oss 1) til ad hafa þvílíka Trú, sem fær sé til, réttiliga ad medtaka Jesú fullnægjugjörd, svo ad samvitska vor, fyrir hans blóds og dauda krapt, hreinsud verdi af daudum verkum, til ad þjóna lifanda Gudi. 2) ad vér sídan upp frá því, aldrei af ásettu rádi synd fremjum, heldur stadfastliga verkum sáluhjálp vora med ugga og ótta, og stöndum í þessu sama stödugir, allt til daudans.

En nú af því þad kostar kappsmuni og vareygd mikla, ad halda þessu stöduglega áfram, sokum freistínga þeirra, sem oss mæta hér í þessu lífi; nefniliga;

1) af holdinu, þad er vorri eigin spiltu náttúru og syndugu tilhneigíngum, sem ecki einasta gjöra oss lata til þess góda, heldur og tæla oss og draga til þess vonda.

2) af heiminum edur heimsins börnum, sem liggja í því vonda, hvorra umgeingni, eptirdæmi og vinskapur, er háskaligasta snara fyrir sálu vora, til ad rjúfa sáttmálan vid Gud; — þessvegna rádleggur sá blessadi höfundur og stiptari þessa vors sáttmála, vor Frels-

sari Jesús Christúr, oss, til ad fá slíkar freist-íngar yfirunnid, ad vér skulum:

1) Vaka, þad er trúliga vara oss og vakta vid þessara freistara tælíngum, svo vér aldrei viljandi, og med ánægju þeim samþyck-jum, því þá erum vér undireins ordnir eidrofsar vid lifanda Gud, og høfum mist góda samvitsku.

2) ad vér skulum bidja, já bidja óaflátan-liga og hjartanliga vorn Gud, um nád og styrk síns heil. Anda, til ad géta stadid oss í strídi þessu móti vorum sálar óvinum, því ella verdur øll vor vaka og vareygd til ónytis.

En hér eru og svo fleiri medøl, sem vor Gud og Frelsari hefur oss géfid, til ad styrkja oss í þessa sáttmáls haldi; hvør, þó útvortis séu, verka þaug, brúkud réttiliga, med krapti, í sálu vorri og hugarfari innvortis. Þessi med-øl eru:

1) Guds heil. Ord, hvørt ad er kraptur Guds til ad gjøra oss sáluhólpna, ef vér því trúum og hlýdum. En vér þurfum þá ad ydka þad kostgjæfiliga, med audmýkt og andagt, skuli þad soddan verkun í oss hafa. Þad sa-ma minnir oss á skyldu vora vid Gud og náúng-ann, ept'ir sáttmála vorum; sýnir oss hvad vidliggi á bádar sídur, hvørt ver høldum hann edur rjúfum, og géfur oss þarnærst hrærandi uppvakníngar, út af kjærleika Guds í Christo Jesú, til ad halda vorn sáttmála vid hann í trú, elsku og einlægri hlýdni. Þad aunad med-alid er

2) Jesú heil. Kvøldmáltíd, hvørja nær vér med réttum undirbúníngi brúkum, med-deilir hún oss, svo vel sem Guds ord, nýum

kroptum og dugnadi, til ad halda voru stridi áfram; og einkum qveikir í oss voldugliga elskuna til þess krossfesta Jesú, sem gjörir það að verkum, ad oss finst bædi yndælt og audveldt ad vardveita hans bodord, sem er sama og halda sinn Skýrnar sáttmála.

Þessi eru nú hin yppurstu og reglurettu medøl, sem til vors Skýrnar sáttmála-halds þéna, en fleiri styrkíngar medøl veitast oss, þar ad auki, til þess sama; nl.

a) Eptirdæmi annara Guds barna, sem trúliga vardveitt hafa sinn Skýrnar Sáttmála og undir eins góda samvitsku; hvørra umgeingni vér skulum því rækja.

b) Innfallandi Guds dómar á ødrum, er samvitskulaust hafa framfarid í heiminum, og forherdtir hafa verid i sínum syndum; þetta skulum vér oss opt fyrir sjónir setja.

c) Typtanir Guds á sjálfum oss, med hvørjum hann, svo sem ødru hyrtíngarhrísi, vill uppvekja oss, til ad hafa þess betur vara á velferd sálar vorrar; þess vegna skulum vér þeim med audmýkt og þacklæti taka.

d) Umþeinkíng Daudans og Dómsins, er jafnan fyrir dyrum stendur, reidubúinn til ad heimta oss þá og þó, til ad standa hinn sídarsta reikníngskap, fyrir Dómara lifendra og daudra.

So margir, sem eptir þessum reglum framgánga, yfir þeim sé og verdi — já mun ad eilífu verda — fridur og miskun Guds, fyrir Jesúm Christ! Amen!